# Tilskipan,

Hvar med

# Vitt og añad um̃ Skrifta=Stooleñ og Altares

GAUNGU A ISLANDE.

Er Regulerad.

HIRSCH-HOLMS-Slote þañ 27. Maii Anno 1746.



Prentud aa Hoolum i Hialltadal Anno 1749.

# Vier Christian sa Siötte/ af Guds Nåd/ Kongur til Danmerkur og Noregs/ Vinda og Gauta/ Hertuge i Slesvijk/ Holstein/ Stormarn og Dytmersken/ Greife uti Oldenborg og Delmenhorst / etc.

Giorum öllum Vitanlegt; Par ed Vier hofum reynt, ad so vel vid Skrifta-Stoolen̄ og Altares Gaunguna a Voru Lande Islande, sem og vid þad, ad Communicantarner giefe sig til kyn̄a med odru fleira, skule vera Mismunur at, hiæ þvi, sem er fast sett og regulerad i Vorum Rijkium Danmork og Noreg; Pa hofum Vier, til ad fæ soddan̄ Mismun afteked, og alla Hlute, so vijdt Landsens Asigkomulag leifer, sett a eirn uniform-Foot, Allra-Nædugast fyrer gott funded, ad Tilskipa og Befala, so sem Vier og hier med Tilskipum og Befolum Soleides, sem Eptirfilger.

1. Peir sem ætla ad ganga til Guds Bords, skulu nockru ædur giefa Prestenum þad til Vitundar, so han̄ kun̄e ad hafa Hentugleik til, ad tala vid Eirn edur An̄an̄ fyrerfram̄ i Einrwme, ef honum þyker þess Porf; Sierdeiles vid Fæviissar og okiendar Ungar Man̄eskiur, edur Framande wr odrum Sooknum, ad þeir fram̄vijse þeirra Passa, so og Bevijsing uppæ þad, hvort þeir hafe vered til Confirmationis. Forsoome nockur ad giefa sig fyrerfram̄ til kyn̄a, þa kien̄e han̄ siælfum sier, þott Prestuen̄ vijse honum fra Skrifta-Stoolnum.

2. Bevijsing uppæ Confirmationena skal sierhvor Prestur vera Skulldbunden̄ til, æn Uppehallds og fyrer utan̄ Betaling, ad giefa, an̄adhvort strax þeim sem eru confirmerader, ellegar, þa þess er Oskad, og skulu þeir Ungu og Okiendu fram̄vijsa soddan̄ Bevijsing, i hvort Sin̄, þa þeir vilia teiknader verda, ellegar, þa þeir koma til an̄arar Sooknar.

3. So og skulu þeir, sem feinged hafa, edur hier epter kun̄a ad fæ Vora Allra-Nædugustu Tillætseme, ad communicera hiæ odrum Preste, fram̄vijsa þeirra fyrerfarande Sæluſorgara Attest, in̄rettad epter han̄s Samvitsku og Persoonun̄ar Asigkomulage, so sem han̄ ætlar til ad svara. Medtake Prestuen̄ soddan̄ Ein̄, æn

slijks

sliks Attests, til Skripta og Altares, þa talest honum til þar fyrer af Profastenum, eñ af Biskupenum, sie hañ sialfur Profastur.

4. Þeir sem Reisa fra Islande til Kaupenhafnar, añadhvort til ad studera, edur ad læra Handverk, Ellegar añara Orsaka vegna, skulu fæia med sier Sacramentes-Sedel fra þeirra Skrifta-Fodur, og lijka so hiedañ, þa þeir Reisa heim aptur til Islands.

5. Betlarar, sem fara um̃ i Landenu, skulu ætijd hafa med sier Vitnesburd fra þeim Preste, sem þeir sijdast hafa communicerad hia, bæde um̃ þeirra Þecking og Framferde; Eñ eingeñ Prestur ma hier epter dyrfast, Betle-Bref ad wtgiefa, edur uppaskrifa, hvort alleina er Syslumañenum epterlated, epter hañs Samvitsku, ad wtgiefa þeim Naudlijdande, sem ei gieta nært sig af siñe Handbiorg. Añars skal eingum vera meinad, helldur hvorium Einum leist, sem Olmusu er bedeñ, ad examinera soddañ Betlara i þeirra Christeñdoom, ad undervijsa og amiña, Somuleides ad uppvekia þa til meire Epterlanganar og Alvoru i þeirra Saaluhialpar-Efnum.

6. J þeim Kollum, sem ei eru sierdeiles Foolk-rijk, Skal ei meir, eñ Eirn i Señ iñtakast i Skripta-Stooleñ, og elga þvi þeir sem eru til Skrifta, þess Tijmanlegar ad vera til Stadar i Kyrkiuñe.

7. Prestarner eiga so vel i hia þessum sem øllum ødrum Hentugleik, bæde Openberlega og i Ein-Rwme, ad Amiña og Uppfræda þeirra Tilheyrendur, ad þeir ei epter Gomlum Vana, Safnest samañ a vissum Tijmum Arsens, til Skrifta og Communionis, Helldur, nær Tilstand þeirra Saalar krefur þess, og þa Hwngrar og Þyrster epter Giædsku DRottiñs. J þessu Tillite skal Presturen ecke vijsa þeim fra, ad slaa þeirra Andagt a Frest, til eins añars Suñudags, Þa þeir einasta eru 4. edur 3. sem vilia communicera.

8. A þeim Døgum, sem Communion skal halldast, skal Prestureñ i hvort Siñ af Predikunar-Stoolnum bidia fyrer øllum Communicantibus yfer Hofud, Eñ ecke fyrer nockrum sier i Lage, Eñ sijdur nefna hañ a Nafn.

9. J hia þess Heilaga Altares Sacramentes Administration skal Presturen fyrerfram sorga fyrer þvi, ad Patinañ og Kaleikureñ sieu so hrein, sem so Heilog Handtieran wtkrefur; Fiñest hañ þar i Forsoomunarsamur, þa skal hañ bæta þar fyrer til Fatækra Presta-Eckna, epter Kallsens Jñtekt, og Profastsens eda Biskupsens Tilsogn.

10. Til þess ad koma i Veg fyrer þañ Mismun, sem a undañgeingur med Amiñingar til Communicantaña, þar sa Eine Prestur brwkar þessa, eñ Añar hina; Þa

 vilium

vilium Vier Allra-Nædugast, ad aller Prestar a Voru Lande Islande, skule hier epter brwka Eina og sialfa þa hina somu Amiñing, sem i Vorum Rijkium Danmörk og Noreg er brwkanleg.

11. So sem þad og hefur hijngad til vered Oleifelegur Sidvane i Islande, ad Prestarner vid Altaresens Sacramentes Administration hafa ei consecrerad meira af Vijnenu, eñ þad, sem i Fyrsta Siñe hefur vered hellt a Kaleikeñ, hvort opt skal vera so kited, ad valla 6. Personur gieta drucked þar af, so ad þad sem epter er, nær fleire eru til Altares, wtdeilest þa, fyrer utañ consecration; Þa vilium Vier hier med Allra-Nædugast hafa befalad, ad, þa af Braude og Vijne þarf meir, eñ þad, sem Fyrsta siñ er fyrer Orded helgad, skal Prestureñ añadhvort i hvort Siñ hafa uppaptur Blessunar Ordeñ, ellegar i eitt Siñ consecrera so miked, sem vid þarf, til allra Communicantanna. Utdeile nockur Prestur hier epter O-consecrerad Braud og Vijn, þa tiltalest honum þar fyrer af Profasts Rettenum uppa hañs Embætte. Þvi bioodum Ver hier med og Befolum Vorum Stiftbefalings Mañe, Biskupum, Amtmañe, Logmoñum, Syslumoñum og odrum, sem þesse Vor Tilskipan send verdur, ad þeir hana a tilhlijdelegum Stodum, til allra Epter-Rettingar, strax læte lesa og kuñgiora.

Gefed a HIRSCH-HOLMS-Slote þañ 27. Maii Anno 1746.

Under Vorre Kongligre Hende og Signete.

# Christian R.

L. S.

Epter Allra-Nædugastre Skickan til mijn underskrifads, Daterabre a HIRSCH-HOLMS Slote, þañ 27. Maii 1746. Er þesse Allra-Nædugasta Forordning um Skriptar-Stooleñ og Altares Gaunguna a Islande, þañig sem her siest, wtlogd a Islendsku, epter þvi Danska Exemplare, og læteñ wtganga a Prent. Test. Stada-Stad þañ 6. Augusti Anno 1746.

HALLDOR BRINIOLFSSON.